# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron

His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.

Kjartan Helgason, fyrrum prófastur

Stephan G. Stephanson, skáld

Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona

Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld

Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)

Einar H. Kvaran, rithöfundur

Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti

Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld

Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti

Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri

Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.

Friðrik Swanson, málari

Kapt. Sigtryggur Jónasson

Dr. B. J. Brandson, læknir

J. Magnús Bjarnason, rithöfundur

Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur

Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona

Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur

A. S. Bardal, útfararstjóri

Ólafur Pétursson, fasteignasali

Sveinn Björnsson, forseti Íslands

Árni Pálsson, prófessor

Sigurgeir Sigurðsson, biskup

Ásmundur P. Jóhannsson

Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President

Einar Jónsson, myndhöggvari

Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri

Einar Sturlaugsson, prófastur

Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld

Gunnar B. Björnsson

G. J. Oleson

Halldór Hermannsson, prófessor

Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson

Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld

Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1960

---

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, fyrrv. landstjóri Kanada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Right Honourable George P. Vanier, landstjóri Kanada.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, Hanover, New Hampshire
Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, fyrrv. forseti Ríkisháskólans í North Dakota
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Bonn, Þýzkaland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Man.
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Man.

**C. Styrktarfélagar 1960**

Mr. Jóhann Th. Beck

Mrs. Louvísa Gíslason

Mr. Björgúlfur Sveinsson

Mr. og Mrs. Ólafur Hallsson

Mrs. J. Nordal

Dr. Richard Beck

Mrs. Kristín Thorsteinsson, í minningu um Sigurrós Vídal, d. 17. febr. 1960, Guðmund B. Magnússon, d. 23. júní 1960

Mrs. Ingibjörg Jónsson

Mr. Walter Johannson

Mr. Grettir Leo Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Ambassador for Iceland, Bonn, Germany

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson leikstjóri, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

**E. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Landsbanki Íslands, Reykjavík

2. KANADA

**Ashern, Man.**

Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**

J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**Foam Lake, Sask.**
Mrs. Steinunn Inge

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Montreal, Ont.**
Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**
Mrs. Fríða Phillipson
Kristján Einarsson

**Pigeon Point, Man.**
Valgeir G. Stadfeld

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Joh. Stadfeld

**Saichton, B.C.**
Mrs. Thordis Fisher

**Vancouver, B.C.**
Mrs. S. Johnson

**Leslie, Sask.**
Rósmundur Árnason
Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundsson
Thorsteinn Guðmundsson
Jóhann Gíslason
Guðmundur Stefánsson

**Wapah, Man.**
J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**
J. A. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

3. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Kapt. Óskar Gíslason
David Love
Ólafur Sigurbjörnsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Cismont, Va.**
Prof. Frederic T. Wood

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

**Des Moines, Wash.**
Mrs. Mekkin S. Perkins

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Lára Gosh
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Margrét Magnússon
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**Félagaskrá þjóðræknisdeildarinnar „Esja", Árborg, Man. árið 1960**
Heiðursmeðlimur:
Þórarinn Gíslason
Jón K. B. Jónsson
Sveinn Eyjólfsson
Valdimar Pálsson
Jón Pálsson
Kristján Sigurðsson
Þórður Anderson
Grímur J. Magnússon
Gunnlaugur K. Oddson
Björn Bjarnason
Halldór Austman
Elín Einarsson
Olga Anderson
S. A. Sigurdson
John Abrahamson
Páll Th. Stefánsson
Magnús Gíslason
Stella Einarsson
Andrés Fjelsted
Bergur Vigfússon
Siggi Pálsson
Pálína Hornfjörð
Th. G. Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
Betrice Martin
Elín Floyed
Sigríður Kristjánsson
Ragnar Guðmundsson
Haraldur Sigurðsson
Sigurður Sigvaldason

Gunnar Sæmundsson
Björgvin Hólm
K. N. S. Friðfinnson
W. S. Eyjólfsson
Hallur Johnson
Indíana Kristinson
Elli Guðmundson
Laugi Johnson
Guðrún Magnússon
S. I. Sigvaldason
Helgi Jakobsson
Jakob Björnsson
Þórarinn Gíslason
Herdís Eiríksson
Jón Gunnarsson
Lára Sigvaldason
G. M. Björnsson
Rikka Magnússon
Brandur Finnson
Sigurður Vopnfjörð
Ragnar Karvelson
Jónína Alexander
Guðjón Stefánson
Árni Brandson (látinn)
Jón Baldvinson
Gestur Vídal
Helgi Helgason
Hildibrandur Brandson (látinn)
Th. G. Björnsson
Skúli S. Skúlason
Einar Johnson
Oddur Ólafsson
Kristján Thórarinson
Sam Þorkelsson
Emil Björnsson
Andrea Johnson
Hrund Skúlason
Guðríður Gíslason
Óli Ólafsson
Björn Goodman
Valgerður Nordal
Margrét Lífman
Sigurlaug Eyjólfsson
T. Böðvarsson
Kristveig Jóhannesson
Þorbjörg Sigurdson
Eiríkur Bjarnason
Lóa Guðmundsson
S. O. Oddleifsson
Guðmundur Sigvaldason
Þorgrímur Pálsson
Emily Vigfússon
S. S. Johnson
Edward Gíslason
Kr. Th. Johnson
Björn Árnason
Bjarni Sigvaldason
Jón J. Jónsson
Jódís Brandsson
Ingibjörg Sigvaldason
Óli Gíslason
Leo Jónasson
Valdi Jónasson
Jón Þórðarson
Valgerður Sigurðsson
Gunnar Einarsson
Victor Jóhannesson
Valdi Jóhannesson
Kristjón Finnson
Siggi Sigurðsson
Guðrún Jónasson
A. S. Johnson
Jóhann K. Johnson
Jóhannes Halldórsson
Árni Kristinson
Páll L. Pálsson
Haraldur Böðvar Johnson
Áslaug Sigfússon
Stefán Eyjólfsson
Axel Eyjólfsson
Jón Eiríksson
Jóhann Bjarnason
Jóhannes Olson
Valdi Johnson
S. H. Jóhannesson
Bjössi Jónasson
J. B. Jóhannson
Jónas Nordal
Kristinn Kristinson
Guðjón Daníelsson
Andrés Guðbjartsson
Björg Laxdal

**Þjóðræknisdeildin „Gimli", Gimli, Man.**

Mrs. Kristín Thorsteinsson, forseti
Mrs. Elín Sigurdsson, varaforseti
Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, varaskrifari
W. J. Árnason, varagjaldkeri

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG ANNAR ÁRGANGUR, 1960

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1961

# Myndir



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Þorkell Jóhannesson



**Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor**
**1885 — 1960**

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Þorkell Jóhannesson

**6. desember 1895—31. október 1960**

Mikil ótíðindi voru það, er ég las í **Lögbergi-Heimskringlu** 10. nóvember, að Dr. Þorkell Jóhannesson, rektor Háskóla Íslands, hefði látizt úr hjartabilun 31. október síðastliðinn. Þegar ég kvaddi hann 8. október í haust, var hann hinn kátasti og hraustasti að sjá. Vonandi hefir hann fengið skjótt og hægt andlát.

Minnst du hur ödet oss förde till hopa! Við hittumst fyrst vorið 1913, er ég fór norður til Akureyrar að taka próf upp í þriðja bekk Gagnfræðaskólans, þá hafði Þorkell setið í öðrum bekk um veturinn, en hann stundaði nám í Gagnfræðaskólanum á Akureyri veturinn 1912-13 og eftir nýjár 1914. Við lukum svo báðir gagnfræðaprófi vorið 1914. Hafði hann þá setið einn og hálfan vetur í Gagnfræðaskólanum, en ég einn, en hvorugur okkar varð langskólagenginn, því ég sat aðeins einn vetur í menntaskóla, las svo fimmta og sjötta bekk á einum vetri með stúdentsprófi 1917, en hann kom aldrei í Menntaskólann, en las allan skólalærdóm heima og tók stúdentspróf 1922. Höfum við því báðir haft jafnlanga skólavist til stúdentsprófs: tvo vetur. Mig rámar til að hafa kennt honum eitthvað til stúdentsprófs og þegið þar fyrir **Gluntarne**, sem síðar spiluðust upp til agna. Síðan urðum við samstúdentar í Háskólanum, og þótt ég lyki mínu prófi fyrr, hafði ég kynni af Þorkeli þar til hann tók meistarapróf sitt 1927. Ég minnist hans ávallt sem vinar og bróður, hvenær sem við höfðum nokkurt samband okkar í milli. En fleirum hefur hann virzt vel en mér, því þegar á stúdentsárum sínum kusu stúdentar hann í trúnaðarstöður, síðar var hann gerður bókavörður, prófessor og háskólarektor, af því að menn treystu honum í þessar stöður. Haraldur Bessason, prófessor í Winnipeg, er verið hafði nemandi Þorkels í fimm vetur, skrifar: „Ég á ekkert um hann nema góðar minningar. Hann reyndist nemendum sínum vel í hvívetna og var alltaf þess búinn að leysa vandræði þeirra, bæði fyrir og eftir próf. Þorkell var alls staðar og af öllum virtur að verðleikum.“

Þorkell Jóhannesson var fæddur 6. desember 1895, þar sem heitir undir Fjalli í Aðaldal, Suður-Þingeyjarsýslu. Faðir hans, Jóhannes Þorkelsson, var þar bóndi og hreppstjóri og sat í tvíbýli við Indriða Þorkelsson, bróður sinn, er bæði var mikill fræðimaður (ættfræðingur og sagnaritari) og gott skáld. Þorkell faðir þeirra var Guðmundsson frá Sílalæk, bróðir Sigurbjargar, móður þeirra Guðmundar og Sigurjóns Friðjónssona. Indriði gaf út eina ljóðabók, **Baugabrot** (1939) á gamals aldri, en þar í var líka eitt ágætt ljóð eftir föður Þorkels, ort skömmu fyrir dauða hans (1929). Sýnilega

hefir þessi heimaskóli verið Þorkeli betri en enginn, auk þess að honum kippti beint í kyn um fræðimennskuna, enda tileinkaði hann doktorsritgerð sína föður sínum, er þá var skömmu látinn. Móðir Þorkels var Svafa Jónasdóttir bónda í Hraunkoti Kristjánssonar. Ein systir Svöfu í Hraunkoti var Hólmfríður; hún fór vestur um haf og varð kona Rögnvalds Péturssonar, doktors, unítaraprests og þjóðræknisleiðtoga. Þessari frændsemi hefir tæplega verið gleymt, þegar Rögnvaldur ánafnaði Landsbókasafninu allar bækur sínar og handrit eftir sinn dag (1940), og þar í voru öll kvæði og bréf Stephans G. Stephanssonar, er Þorkell gaf síðar út fyrir Þjóðvinafélagið af mikilli nákvæmni og trúmennsku. Frændseminni mun heldur ekki hafa verið gleymt, er ekkja Rögnvalds og börn ánöfnuðu Háskóla Íslands talsvert fé í sjóði vorið 1960.

Að stúdentsprófi loknu las Þorkell sögu hjá Páli Eggert Ólasyni við Háskóla Íslands og lauk meistaraprófi 1927 með ritgerð um hagsögu Íslands á 14. og 15. öld. Gerðist Þorkell nú skólastjóri Samvinnuskólans og meðritstjóri **Samvinnunnar** með Jónasi frá Hriflu og hélt hvorutveggja starfi til 1931. Þeir Jónas og Þorkell voru sveitungar, báðir úr átthögum samvinnustefnunnar, Þingeyjarsýslu. Það var því eðlilegt, að Þorkell skrifaði margar greinar í Alþingishátíðarblað **Tímans** (1930) og gerðist síðan ritstjóri dagblaðs framsóknarmanna, **Nýja dagblaðsins** og vikurits þess, **Dvalar**, á meðan þau komu út (1933-34).

1. janúar 1930 var Páll Eggert Ólason gerður að bankastjóra, og losnaði þá kennarastaða hans við Háskólann. Umsækjendur fengu sex mánaða ritgerð að skrifa „um kjör verkafólks á Íslandi frá upphafi til siðaskipta". Vann Árni Pálsson, þótt hann lyki ekki við ritgerð sína, en Þorkell lét snúa ritgerð sinni á þýzku, **Die Stellung der freien Arbeiter in Island bis zur Mitte des 16. Jahrhunderts** (1933), og varði hana síðan sem doktorsritgerð við Hafnarháskóla vorið 1933. Hlaut hún góða dóma af mönnum eins og Finni Jónssyni. Þetta var „persónulaus" saga, sem Jónas frá Hriflu kallar svo í formála sínum að VIII. bindi **Sögu Íslendinga** og kennir áhrifum frá söguskoðun Karls Marx. Sams konar persónulausir söguþættir eru **Aldarminning Búnaðarfélagsins** (1937), **Landbúnaður á Íslandi** í **Almanaki Þjóðvinafélagsins** (1943) og **Alþingi og atvinnumálin** (1947). **Örnefni í Vestmannaeyjum** (1938) eru líka eins konar persónulaus saga, en enginn mundi bendla þá sögu við Marxisma. Í sama formála sama bindis getur Jónas frá Hriflu þess, að á þeim árum er hann var bæði formaður Menntamálaráðs og Þjóðvinafélagsins, skömmu fyrir síðustu heimsstyrjöld, hafi Þorkell komið að máli við sig og stungið upp á því að hafin yrði útgáfa á **Sögu Íslendinga** í tíu bindum, en bækurnar gefnar út af Menningarsjóði og Þjóðvinafélaginu. Þorkell var þá bókavörður við Landsbókasafnið (1931-1944), en gerðist 1936 ritstjóri Þjóðvinafélagsbókanna. Kom V. bindi sögunnar, um 17. öld, skrifað af Páli Eggert Ólasyni, út 1942, en þar voru nefndir í ritstjórn verksins Árni Pálsson prófessor, Barði Guðmundsson þjóðskjalavörður og

Þorkell bókavörður. Átti Barði að skrifa I. bindi fram að 1100, þá Árni II.-III. frá Sturlungaöld til siðaskipta, þá Páll Eggert IV. bindi um siðaskiptaöld og V. bindi um seytjándu öld. Þá áttu þeir Páll og Þorkell að skipta með sér átjándu öldinni í VI. bindi, svo að Páll skrifaði um tímabilið 1700-1750, en Þorkell um tímann 1750-1770; þetta bindi kom út 1943. Næst lauk Páll, sem sjaldan var lengi að litlu, við IV. bindi sitt um siðaskiptaöldina, það kom út 1944. Þá lauk Þorkell við VII. bindið um upplýsingaröldina, 1770-1830. Það kom út 1950 og kvaðst Þorkell hafa verið 5 ár að skrifa það. Enn liðu önnur fimm ár þar til Jónas frá Hriflu lyki við annað bindi sitt um Fjölnismenn og Jón Sigurðsson, 1830-74, eða réttara sagt um skáldin á þessu tímabili, en annar hluti af því VIII. bindi er enn óskrifaður. Loks skrifaði Magnús Jónsson guðfræðiprófessor sögu tímabilsins 1874-1903, tvö IX. bindi um landshöfðingjatímabilið, þessi bindi komu út 1957 og 1958. Barði Guðmundssson og Árni Pálsson dóu frá sínum bindum, svo fornöldin er enn óskrifuð. Jónas segir frá því í formála sínum, að þetta hafi átt að vera persónusaga í líkingu við Íslendingasögur og **Sturlungu**, og í líkingu við bækur Páls Eggerts um siðaskiptamennina, og þá eigi aðeins um valdsmenn eða ráðamenn ríkis og kirkju, heldur líka um skáld, rithöfunda og bækur þeirra. Má segja, að Þorkell hafi í sínum bindum fylgt Páli í efnismeðferð, en hann skrifaði sinn einkennilega þingeyska stíl, sem oft var fyndinn og skemmtilegur. Svipuð glettni í stíl kemur oft fram í **Tryggva Gunnarssyni, I. Bónda og timburmanni** (1955), en sú saga átti að vera í þrem bindum mjög ítarlegum, sem fyrir þá sök er ekki alltaf jafnskemmtileg aflestrar. Það var mjög vel til valið, að Þorkell skyldi skrifa sögu Tryggva, þar sem báðir voru á sínum tíma hæstráðendur í Þjóðvinafélaginu, og óvíst að Tryggvi hafi nokkurn tíma haft betri bækur á boðstólum en **Rit** Stephans G.

Árið 1936 var Þorkell kosinn ritstjóri **Andvara** og **Almanaks** Þjóðvinafélagsins; réði hann síðan mest um störf og stefnu félagsins til dauðadags. Árið áður, 1935, höfðu þau hjónin Rögnvaldur Pétursson og Hólmfríður verið í heimsókn til átthaganna. Vel má vera, að þá hafi ráðizt að **Bréf og ritgerðir** Stephans G. Stephanssonar yrðu útgefnar af Þjóðvinafélaginu; kom fyrsta bindi 1939, en Þorkell sá um útgáfuna. Fjórða og síðasta bindi kom 1948. Síðan gaf Þorkell enn út allar **Andvökur** Stephans og komu þær fyrir 1960. Þetta var langmerkilegasta útgáfa Þorkels og var gott, að hún var svo fljótt og vel af hendi leyst. Vel má það hafa verið í sambandi við þessa útgáfu að Þorkell fór vestur um haf skömmu eftir stríð síðara að heimsækja frændkonu sína — Rögnvaldur var þá dáinn. Var það fyrsta för hans vestur um hafið og kom hann þá við hjá mér í Baltimore um haustið. Í þeirri ferð tók hann að sér að velja og búa til prentunar safn af ræðum séra Rögnvalds Péturssonar, sem nefnt var **Fögur er foldin**, var gefin út á kostnaðar Menningarsjóðs 1950. Síðar (1960) bauð Bandaríkjastjórn honum vestur og kom hann þá aftur við hjá mér um

vortíma. Enn er ógetið útgáfu Þorkels **Merkir Íslendingar**, ævisögur og minningargreinar, er fyrst komu út 1947; alls hafa komið sex bindi, gefin út af Bókfellsútgáfunni; margt af þessu eru ævisögur merkismanna úr Andvara, sem annars mundu vera gleymdar og grafnar í tímaritinu. Virtist mér fara vel á því að fylla eitt bindi af ævisögum eftir Þorkel sjálfan, en hann hefur skrifað um Einar Benediktsson, Tryggva Þórhallsson, Dr. Rögnvald Pétursson, Magnús Stephensen, Guðmund Friðjónsson, Unni Benediktsdóttur, og mun þá ekki allt upp talið. Árið 1955 var Þorkell einn af stofnendum Almenna bókfélagsins og var kosinn formaður ráðs þess vorið 1959. Hann hafði líka stundum verið í Menntamálaráði. Enn fremur var hann í útgáfuráði **Nordisk Kulturleksikon**, er gefið var út í Kaupmannahöfn. Hann varð prófessor í sögu við Háskólann 1944. Loks var hann kosinn rektor Háskólans eftir Alexander Jóhannesson haustið 1954 til þriggja ára, endurkosinn 1957 og loks 1960. Sýnir þetta vel traust manna á honum, enda veit ég ekki til þess að hann hafi nokkurn tíma brugðizt neinum. Um störf hans fyrir Háskólann er mér lítt kunnugt, þó vissi ég að Háskólinn átti í sumar kvikmyndahús í byggingu. Enn fremur var rektor boðið á háskólahátíðir í Noregi í sumar og skildist mér á honum, að slík reynsla mundi koma sér vel næsta vor, er íslenzki Háskólinn ætti hálfrar aldar afmæli. Var hann með hugann við það, er ég hitti hann síðast.

Þorkell var kvæntur Hrefnu Bergsdóttur frá Ökrum á Mýrum. Þau giftust sumarið 1935. Var hún manni sínum mjög hjálpleg í starfi hans og enginn eftirbátur um gestrisni, höfðingskap og híbýlaprýði utan húss og innan, eins og gestir þeirra geta borið. Þau hjónin áttu ekki barn, en höfðu tekið telpu til fósturs. Mjög á þessi kona nú um sárt að binda að missa mann sinn svo óvænt og langt um aldur fram, þótt það eitt sé til bóta að bezt sé bráðkvöddum að fara. Er vonandi, að vinir Þorkels muni henni nú drengskap hennar við bónda sinn og reyni að hjálpa henni í hvívetna yfir þann örðuga hjalla, er hún hefur nú lagt á.

The Johns Hopkins University,

**Stefán Einarsson**

Rit Þorkels eru skráð í **Árbók Háskóla Íslands** 1946-47 og 1951-52.

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON:

# Karlakór Reykjavíkur

Glymdrápuveður
vildargestir,
himinfljúgandi
um heim allan,
heyrið hve lágróma
lítill þröstur
heilsar íslenzkum
heiðasvönum.

Velkomnir hingað
frá heiðavötnum,
Íslands ilmdölum
og anganhlíðum,
frá fjallalandi
til flötutúna
kjörlandsins austan
Klettafjalla.

Sléttan hálmbleik
að haustnóttum
faðminn breiðir
mót frægum gestum
— fær gyðjumynd
við þá gestakomu —
setur þá í öndveg
sér hið næsta
til hægri handar
til hins hæsta sóma.

Hvað er til umræðu
efst á baugi?
Kornhlöður fullar
með kúf upp af!
róstur milli ríkja
og ráðstjórna,
en viðskipti þjóða
öll vinsamleg.

Munið að engar
óvinaþjóðir
er að finna
í öllum heimi,
en flokkar manna
og fyrirliðar
ala á úlfúð
og ósamlyndi.

Ljóst er á lýðmótum
listamanna
að þúsunda þjóðbrot
með þeli hlýju
heilsast sem bróðir
bróður mæti
og systir systur
í sannri vináttu.

Komi sú stund
að stjórn hvers lands
sé karlakór
sem þið kæru gestir;
listin ein
er þess umkomin
að sætta yfirvöld
allra landa.

Hér er hlutverk
af hendi að inna.
Söngvarar, þið
hafið sigurmáttinn,
sameinið þjóðir,
en sjáið um
að hver einasta þjóð
sé einstaklingur.

Frétzt hefur það
að þið fóstrazt hafið
við flóðdunur
á fjörusöndum,
andrúmsloft blóma
og birkiskóga
og árgalaraddir
frá reynilundum.

Og þið áhrifum mætt
frá eldjöklum,
fossaföllum
og flugstraumum,
Heklu, Geysi
og Grímsvötnum,
Dimmuborg, Kötlu
og Dyngjufjöllum.

Þið hafið andstæðum
af að segja,
heljarátökum
elds og klaka,
náttúruöflum
sem uppreisn gera
mót sjálfum sér
og sigra hvert annað.

Sama fer fram
í sálum manna,
í sálum þeirra
eru sömu öflin,
hvorki ill né góð
í eðli sínu,
manni jafnhæf
til hagnýtingar
og honum þau eru
til hermdarverka.

Í andans heimi
verður allt að byrja,
breytast tóntegund
í tímans lagi,
hefjast með forspili
Heimdalar lúðurs
og hörpu Orfeifs
fyrir æðri hljómlist.

Söngsins almætti
orkar hughvarfi,
hefur veg og völd
yfir veðuráttu
og árstíðum öllum
í andans heimi,
þar hljómsprotinn verður
að veldissprota.

Valdi hughvarfi
ykkar hljómtöfrar!
stöðvið rangstreymi
með raddsöngum,
varnið eldhrauni,
að vatni þurrkuðu,
andans árfarveg
í að renna.

Varnið með eldmessu
ykkar söngradda
skæðum skeiðandi
Skaftáreldum
og eldhrauni
yfir að ljúka
allra heims þjóða
helgidóma.

Á ykkur heitið
er og skorað
að þið afreksverk
örðug vinnið,
öðrum ofvaxin,
og á það minntir
að þið hafið afreksverk
þegar unnið.

Komið heilir
þið heiðursgestir,
friðsemjandi,
frelsi boðandi
undirokuðum,
áníddum,
þjóðum þeldökkum
og þjóðum hvítum.

Farið heilir
um heim allan,
Sólarlands friðar
sendiboðar,
land úr landi,
lög syngjandi.
Sveimið þið svanir
yfir sálarvötnum.

Hefji hljómgrunnar,
hugir og munnar
Íslands söngva alla
að endurkalla;
hlymji hljómskáli
af hjartans bergmáli
með heilu þakklæti
fyrir hæsta verðmæti.

PRÓFESSOR RICHARD BECK:

# Svipleiftur úr sumardvöl á Íslandi

**Austur loftin blá**

„Römm er sú taug,
er rekka dregur
föðurtúna til.“

Þessar ljóðlínur rómverska fornskáldsins, í snilldarþýðingu Sveinbjörns Egilssonar, eru jafn sannar nú og þegar skáldið orti þær fyrir tvö þúsund árum. Og okkur heimaöldum Íslendingum, sem ævidvöl eigum utan ættjarðarstranda finnast þessi orð töluð beint út úr okkar hjörtum, svo rétt og vel túlka þau tilfinningar okkar gagnvart ættlandi og ættþjóð, þar sem ætternis- og menningarræturnar standa svo djúpt í mold.

Af því leiðir þá einnig, að það er okkur Íslands sonum og dætrum utan stranda þess kærkomið fagnaðarefni og ævintýri líkast, þegar við eigum þess kost að heimsækja fornar slóðir. Eins og kunnugt er, var það mitt góða hlutskipti að eiga dvöl heima á Íslandi mestan hluta síðastliðins sumars í virðulegu boði vina og velunnara víðs vegar um land. Fæ ég aldrei að fullu launað hlutaðeigendum þá sæmd, er þeir sýndu mér með því heimboði, né heldur höfðingsskapinn og ástúðina, sem umfaðmaði mig alls staðar á ferðum mínum. Eitt er víst, að minningarnar frá þessu dásamlega sumri á ættjörðinni mun syngja mér í huga eins og fagurt ljóð um ókomin ár og hita mér um hjartarætur.

En hverfum augnablik aftur að sjálfri ferðinni yfir hafið. Nú gerist okkur Íslendingum vestan hafs, góðu heilli, stórum auðveldara en áður var að heimsækja ættjörðina og frændur og vini á þeim æsku- eða ættarslóðum, síðan beinar flugferðir hófust milli New York og Reykjavíkur, og ekki sízt fyrir greiðar og tíðar flugferðir „Loftleiða“ milli Íslands og Vesturálfu. Og vissulega er það hverjum góðum Íslendingi ánægjuefni og heilbrigðs metnaðar að geta ferðazt heim til ættlandsins með þeim hætti. Það er óneitanlega yndislegt að vera boðinn velkominn um borð í íslenzka flugvél á flugvellinum í New York af elskulegri íslenzkri flugfreyju; mann langar helzt til að reka að henni rembingskoss og heilsa henni þannig að gömlum íslenzkum sið, en velsæmistilfinningin leyfir það eigi, enda mikið efamál, hvernig slíkum óboðnum ástarhótum kynni að verða tekið! Hvað sem því líður, þá fór ágætlega um mann um borð í „Leifi Eiríkssyni“ og ferðin fljót austur loftin blá, farið á einum níu

klukkustundum viðstöðulaust frá New York til Reykjavíkur. Mér varð hugsað til nafna hans, hins heppna og sögufræga, er fann Vínland hið góða eftir að hafa velkzt lengi í hafi. En vel er hann að nafngiftinni kominn og um leið prýðilega af henni sæmdur, þar sem er um jafn myndarlegan og hraðskreiðan farkost að ræða og „Leifur Eiríksson“ er.

„Hve sælt, hve sælt að líða um hvolfin heið,“ segir Einar skáld Benediktsson í snjöllu kvæði sínu „Svanur“, og mér urðu þau orð hans ofarlega í huga, er við á þessu bjarta júníkvöldi svifum austur, ofar skýjum, hvolfin heið og blá, og er lengra leið, undir blikandi stjörnum. Þá sóttu enn fastar á hug minn þessi andríku og fleygu orð sama skálds úr „Norðurljósum“ hans:

„Nú finnst mér það allt svo lítið
og lágt,
sem lifað er fyrir og barizt er móti.
Þó kasti þeir grjóti og hati og hóti,
við hverja smásál ég er í sátt.
Því bláloftið hvelfist svo bjart og
hátt.
Nú brosir hver stjarna, þótt
vonirnar svíki,
og hugurinn lyftist í æðri átt,
nú andar guðs kraftur í duftsins
líki.
Vér skynjum vorn þrótt, vér
þekkjum í nótt
vorn þegnrétt í ljóssins ríki.“

En fleira varð mér til ánægjuauka á flugferðinni heldur en hin ágæta aðbúð í flugvélinni og heillandi umhverfið í loftsins fangvíðu og bláu sölum. Ég hafði hinn ákjósanlegasta sessunaut, þar sem var sjálfur biskupinn yfir Íslandi, herra Sigurbjörn Einarsson, á heimleið úr sögulegri og kærkominni heimsókn sinni til okkar Íslendinga vestan hafsins, er lengi mun geymast okkur í þakklátum huga. Margt bar á góma í samtölum okkar félaganna á flugleiðinni austur, því að fremur lítið var sofið, og sumar féllu hugsanirnar í stuðla. Þá er leiðin var nærri hálfnuð, hraut mér þessi vísa af vörum:

„Leifur“ skýja kólgukaf
klýfur vængjum þöndum,
bráðum verður hálfnað haf
heim að ættarströndum.

Eitthvað mun mér hafa runnið í brjóst, og var langt komið leið, er ég hóf aftur vísnagerðina með þessum árangri:

Leiðin styttist, lyftist brátt
landið kært úr öldum,
sólu roðið, sumarblátt,
sveipað geislatjöldum.

Það brást heldur ekki. Þegar hinn þráði draumur rættist og Ísland reis úr sæ, hló það við sjónum í fegursta sumarskrúða. Við ferðalangarnir stigum þar fæti á grund á svo fögrum júnímorgni, að fáa getur slíka eða fegurri. Skáldleg en raunsönn lýsing Stephans G. Stephanssonar, „Nóttlaus voraldar veröld, þar sem víðsýnið skín,“ hljómaði mér í eyrum eins og yndisþýtt viðlag, er ég svipaðist um af flugvellinum og naut morgunfagurs útsýnisins til hafs og fjalla.

**Atburðaríkir dagar í höfuðborginni**

Í Reykjavík er mikið athafna- og menningarlíf, eins og vænta má og vera ber um höfuðborg landsins. Verður það ekki sízt sagt um júnímánuð, því að þá halda alls konar félög þar ársþing sín, og svo var einnig síðastliðið vor.

Samband íslenzkra berklasjúklinga hélt tólfta ársþing sitt þar í nágrenninu (að Vífilsstöðum) snemma í júní, en sá ágæti fléagsskapur hefir unnið mikið og merkilegt starf til útrýmingar berklaveiki á Íslandi og til hjálpar þeim, sem höfðu endurheimt heilsu sína, ekki sízt með stofnun hins frábæra vinnuhælis Reykjalundar.

En hið sérstaka tilefni þess, að þingið var að þessu sinni haldið að Vífilsstöðum var það, að heilsuhælið þar átti 50 ára afmæli á árinu, er var hátíðlegt haldið þ. 6. september í haust. Hefir svo mikið áunnizt í baráttunni við „hinn hvíta dauða", að dánartala berklasjúklinga á Íslandi hefir lækkað um 98%. Er þar um að ræða stórkostlega sigurvinningu, enda dáði landlæknir Dana, er var í heimsókn á Íslandi nýliðið sumar, það mjög, hvað Ísland stendur framarlega í heilbrigðismálum, bæði á sviði berklavarna og um heilsuvernd að öðru leyti; barnadauði mun t. d. hvergi lægri en þar.

Um svipað leyti hélt Samband íslenzkra barnakennara 16. fulltrúaþing sitt í Reykjavík, og voru þar, meðal annarra viðfangsefna, rædd launamál kennarastéttarinnar og kennaraskorturinn á landinu, sem er að verða alvarlegt vandamál. Kennarastéttin íslenzka, og þeir, sem vinna að fræðslumálunum þarlendis, eiga því hvað það snertir, við sambærileg vandkvæði að glíma og við, er á því sviði störfum og um þau mál fjöllum hér vestan hafsins.

Litlu síðar var sextugasta þing Stórstúku Góðtemplarareglunnar á Íslandi einnig haldið í Reykjavík, og voru þar samþykktar margar athyglisverðar tillögur í bindindismálunum. Á Stórstúkan sér að baki eigi aðeins langa sögu og merka, heldur einnig mikið og mannbætandi starf í þjóðar þágu.

Síðast en langt frá sízt ber þess að geta, að Prestastefna Íslands var háð í Reykjavík seint í júní, og hafði hún til meðferðar ýmis aðkallandi vandamál íslenzkrar kirkju og prestastéttarinnar. Í hinni efnismiklu yfirlitsskýrslu sinni við setningu prestastefunnar minntist Sigurbjörn Einarsson biskup sérstaklega vinsamlega á ferð sína vestur um haf, og komst meðal annars svo að orði: „Þeim megin er áhugi eindreginn á gagnkvæmum, örvandi samskiptum og kynnum, og þjóð vor og kirkja eiga þar sterka vinarhugi. Hverju handtaki — og þau voru mörg — fylgdi hjartanleg kveðja til Íslands og ástarjátning til þess, sem íslenzkt er."

Mér veittist sú ánægja að koma á öll þessi þing eða samkomur í sambandi við þau, er var jafnframt mjög lærdómsríkt, því að í viðfangsefnum þeirra speglaðist íslenzkt þjóðlíf og menningarleg starfsemi með ýmsum hætti. Þar voru einnig mættir fulltrúar úr öllum landshlutum, og því ágætt tækifæri til að endurnýja gömul kynni og tengjast nýjum vináttuböndum, og til

þess að koma á framfæri kveðjum frá frændum og vinum vestan hafsins.

### „Föðurland vort hálft er hafið"

Þannig farast Erni Arnarsyni skáldi orð í snilldarljóði, og hefir laukrétt að mæla, því að íslenzka þjóðin sækir enn, um annað fram, lífsbjörg sína í hafið, og íslenzkir sjómenn inna að sama skapi af hendi grundvallar hlutverk í þjóðar þágu, með því, eins og Örn skáld sagði fagurlega í öðru kvæði, að:

„— — flytja þjóðinni auð,
sækja barninu brauð,
færa björgin í grunn undir framtíðarhöll."

Það er því ekki að ófyrirsynju, að íslenzkri sjómannastétt er helgaður sérstakur dagur ársins, Sjómannadagurinn, sem síðastliðið vor var haldinn um land allt sunnudaginn 12. júní. Forystumenn samtaka sjómanna sýndu mér þann sóma að bjóða mér að vera gestur þeirra við hátíðahöldin í Reykjavík, sem fóru fram í sólskini og blíðskaparveðri, svo að ekki varð á betra kosið. Skipin í höfninni og mörg hús í borginni voru fánum skreytt. Kl. 2 e. h. hófust útihátíðahöld dagsins á Austurvelli. Séra Óskar J. Þorláksson dómkirkjuprestur flutti hjartnæma minningarræðu um sjómenn þá, sem látizt höfðu við störf sín á árinu frá síðasta Sjómannadegi, en þeir voru 19 talsins. Sannaðist enn sem fyrr, að jafnframt því sem Ægir er oft stórgjöfull við strendur Íslands, heimtar hann líka miklar fórnir. Að lokinni minningarræðunni söng Kristinn Hallsson áhrifamikinn einsöng. Síðan hófust ræðuhöld. Emil Jónsson sjávarútvegsmálaráðherra gat þess sérstaklega í eftirtektarverðri ræðu sinni, að veiðiflota landsmanna hefði aldrei bætzt jafnmikill kostur myndarlegra báta búinna fullkomnum tækjum og síðastliðið ár.

Seinna um daginn fór fram kappróður á Reykjavíkurhöfn og kepptu tíu skipshafnir. Var skemmtilegt á þann kappleik að horfa, því að knálega var róið, og hló mér, gömlum austfirzkum sjómanni, hugur í barmi. Mikill mannfjöldi var viðstaddur öll útihátíðahöld dagsins, sem fóru hið bezta fram og sjómönnum til sæmdar.

Jafnframt því að vera viðstaddur hátíðahöld dagsins, gafst mér tækifæri til að skoða hið stórmyndarlega og fagra Dvalarheimili aldraðra sjómanna, Hrafnistu, og ræða þar við gamla, veðurbarna sjógarpa, sem kunnu frá mörgu að segja. Mun löng leit að jafn prýðilegu sjómannaheimili og Hrafnista er að öllu leyti. Var mér heimsóknin þangað einnig sérstaklega kærkomin, vegna þess að við hjónin höfðum verið gestir við hornsteinslagningu þessa glæsilega dvalarheimilis fyrir sex árum.

### Af sjónarhóli 40 ára stúdents

Einn af allra ánægjulegustu atburðunum í Íslandsferð minni var það, að mér gafst kostur á að halda hátíðlegt með samstúdentum mínum frá 1920 fjörutíu ára stúdentsafmæli okkar. Eins og venja er til á slíkum tímamótum vorum við skólasystkinin viðstödd uppsögn Menntaskólans þ. 15. júní, en hún fór fram nú sem áður í hátíðarsal skólans, hinum sögufræga þjóðfundarsal frá 1851, er

Jón forseti Sigurðsson mælti sín örlagaríku og ódauðlegu eggjanaorð í stjórnfrelsisbaráttu Íslendinga: „Eigi víkja.“ Samstúdentar mínir höfðu sýnt mér þá miklu sæmd að velja mig til þess að hafa orð fyrir þeim á þessu merkisafmæli okkar, og var mér það vitanlega ljúft hlutverk að mega með þeim hætti votta okkar gamla og kæra skóla virðingu og þökk. Og aldrei hefi ég, nema á Þingvöllum 1944 og í Skálholti 1954, staðið í ræðustóli þar sem ég hefi fundið vængjaþyt sögunnar leika mér eins sterklega um vanga og á þessari stundu í hátíðarsal Menntaskólans. Söguleg helgi hans hitaði mér um hjarta. Það var eins og að ganga undir vígslu til þjónustu við þær hugsjónir, sem salurinn minnti á, frelsishugsjónir, framsóknar- og sjálfstæðisanda.

Ég leit yfir fríðan stúdentahópinn, á annað hundrað, sem er talandi vottur um vöxt skólans og viðgang, því við vorum 24 stúdentarnir frá 1920, er við brautskráðumst. Minningarnar frá skólaárunum sóttu fast á hug minn. Þá var mikil skáldaöld í skóla, eins og frægt er orðið, og hefir sambekkingur okkar í fjórða bekk, Tómas Guðmundsson, sem kunnast ljóðskáld hefir orðið úr þeim stóra hópi unnenda kvæðadísarinnar, lýst því eftirminnilega í þessum ljóðlínum í einu hinna snjöllu kvæða sinna:

„Þá færðust okkar fyrstu ljóð í
letur,
því lífið mjög á hjörtu okkar fékk.
Og geri margir menntaskólar betur:
Ég minnist sextán skálda í fjórða
bekk.“

Sannarlega hefir mikið vatn runnið til sjávar, í mörgum skilningi, síðan við stúdentarnir frá 1920 gengum niður Skólabrú, vonglaðir og djarfhuga, eins og ungir stúdentar eiga alltaf að vera, því að þeirra er framtíðin, hvers konar gull, sem hún kann að leggja í lófa þeirra, og hvernig sem þeim kann að takast að spinna sinn æviþráð, svo að ég leyfi mér að breyta til um samlíkinguna.

En þegar ég nú af sjónarhóli 40 ára stúdents renni augunum yfir farinn veg, þá verður mér ríkast í huga: Mikil gæfa var það að mega vera Íslendingur á fyrra helmingi hinnar tuttugustu aldar, og hafa lifað hina minnisstæðu og áhrifaríku atburði, sem gerzt hafa í sögu þjóðarinnar á því tímabili, er náðu hámarki sínu með endurreisn lýðveldisins fyrir 16 árum síðan. Þá er það eigi síður metnaðar- og fagnaðarefni hverjum sönnum Íslendingi, hvar sem hann er búsettur, að minnast þeirra miklu framfara, sem orðið hafa með svo mörgum hætti í íslenzku þjóðlífi síðasta aldarhelminginn. Þetta hefi ég fundið betur og betur í hverri heimsókn minni til ættjarðarstranda, en ferðin í sumar var fjórða koma mín heim um haf síðan ég fluttist til Vesturheims fyrir 39 árum.

**17. júní í Reykjavík**

Yfir þjóðhátíðardegi Íslands, 17. júní, hvílir mikill ljómi í hugum allra Íslendinga. Það er þá einnig óblandið fagnaðarefni hverjum Íslendingi, sem búsettur er erlendis, að geta verið heima á ættjörðinni þann söguríka og sigurbjarta dag. Á síðastliðnu sumri naut ég þeirrar ánægju í þriðja sinn síðan lýðveldið var endurreist 1944.

Dagsins var að sjálfsögðu minnzt með hátíðahöldum víðs vegar um landið. Í Reykjavík fóru þau nú sem áður fram með fjölþættum hætti: skrúðgöngum, útihátíð, íþróttum, barnaskemmtun og kvöldvöku. Þegar ég, að gömlum sjómannasið, gáði til veðurs snemma um morguninn, leizt mér ekki nema í meðallagi á útlitið, en betur rættist úr heldur en áhorfðist í þeim efnum, og er veðurfari dagsins ágætlega lýst í þessum orðum eins Reykjavíkurblaðsins:

„Þjóðhátíðardagurinn rann ekki upp bjartur og fagur yfir Reykjavík, því þokuloft var og drungalegt, en í þann mund, er sjálf hátíðahöldin voru að hefjast í fánum prýddum bæ, gekk vindur til norðlægrar áttar og á svipstundu skipaðist veður í lofti: Sólin brauzt fram úr skýjaþykkninu, og að lítilli stundu liðinni var kominn heiður himinn. Þessi snöggu veðraskipti urðu til þess, að almenn þátttaka varð í hinum fjölbreyttu hátíðahöldum." (**Morgunblaðið**, 19. júní 1960)

Aðalhátíðin hófst með áhrifamikilli guðsþjónustu í Dómkirkjunni. Séra Jón Auðuns dómprófastur prédikaði, Guðmundur Jónsson óperusöngvari söng einsöng og dr. Páll Ísólfsson lék á kirkjuorgelið. Að messu lokinni lagði dr. Þórður Eyjólfsson, forseti Hæstaréttar, blómsveig frá íslenzku þjóðinni að minnisvarða Jóns Sigurðssonar á Austurvelli. Eftir að þjóðsöngurinn hafði verið sunginn með undirleik lúðrasveita, flutti Ólafur Thors forsætisráðherra skörulega og tímabæra ræðu um þjóðmál af svölum Alþingishússins. Að henni lokinni var „Ísland ögrum skorið" sungið og leikið. Steig þá fram á svalirnar Fjallkonan, Þóra Friðriksdóttir leikkona, og flutti af mikilli prýði ávarp sitt, en það var nýtt ljóð eftir Tómas skáld Guðmundsson, og eru tvö fyrri erindin af fjórum á þessa leið:

„Það hendir tíðum Íslending úti í löndum
um óttuskeið, er tindrar af heitu myrkri,
að svefn hans er rofinn svölum, skínandi væng,
sólhvítu bliki, sem lýstur hans skynjun og fyllir
allt andrúmið sævarseltu og heiðablæ.
Því þessa nótt kemur norðrið andvökubjarta
í nakinni dýrð og leggur að útlagans hjarta
sitt land, sín fanngnæfu háfjöll og himinsæ.

Svo vitjar þín Ísland, laugað brimhvítu ljósi,
og lind þinnar bernsku er jafnsnemma tekin að niða
í barmi þínum. Frá ofurgnægð lita og ilms
snýr andi þinn langvegu þangað sem fólk þitt háði
sitt ævistríð um þín örlög, við nyrztu höf.
Og þér munu aftur leggjast þau ljóð á tungu,
sem liðnar aldir genginni kynslóð sungu
og fylgdu henni að heiman — frá vöggu að gröf."

Eftir hátíðahöldin á Austurvelli var gengið í fylkingu áleiðis suður á

Íþróttavöll, en staðnæmzt í Kirkjugarðinum við leiði Jóns Sigurðssonar, þar sem forseti bæjarstjórnar, Gunnar Thoroddsen fjármálaráðherra, lagði blómsveig frá Reykvíkingum ,en karlakórinn „Fóstbræður“ söng. Var það látlaus athöfn, en minnisstæð.

Á Íþróttavellinum fór síðan fram fjölþætt íþróttakeppni. Meðal þátttakenda voru margir hinir fremstu íþróttamenn þjóðarinnar, og var það hin ágætasta skemmtun að horfa á þá leika listir sínar. Minntist ég hins forna spakmælis: „Heilbrigð sál í hraustum líkama,“ og standa þau áminningarorð enn í fullu gildi.

Sérstök barnaskemmtun fór fram á Arnarhóli samtímis, og flutti okkar gamli vinur, séra Ólafur Skúlason, fyrrum sóknarprestur í Norður-Dakota, en nú æskulýðsfulltrúi þjóðkirkjunnar, börnunum prýðisfagurt ávarp. Á Arnarhóli var síðan haldin fjölþætt skemmtun um kvöldið; meðal annars sungu þar einsöngva þeir Kristinn Hallsson og Guðmundur Guðjónsson. Aðalræðu kvöldsins, áheyrilega og athyglisverða, flutti Geir Hallgrímsson, borgarstjóri. Þjóðhátíðarnefnd hafði sýnt mér og Vestur-Íslendingum þann heiður að biðja mig að flytja kveðjur þeirra á kvöldvökunni. Verður mér haf mannfjöldans ógleymanleg sjón, en áætlað var, að 15-20,000 manns hafi verið þarna saman kominn. Jafnframt var allri skemmtiskránni útvarpað. Mér var litið á líkneski Einars Jónssonar myndhöggvara af Ingólfi Arnarsyni landnámsmanni, er blasti við mér á Arnarhóli, og mér fannst sem gleðibros léki um andlit hans og að hann lýsti með þeim hætti velþóknun sinni yfir fjölmenni því, sem nú býr í hinu gamla landnámi hans. Þegar kvöldvökunni lauk, dunaði dansinn á aðalgötum miðbæjarins, við leik margra hljómsveita og söng einsöngvara, fram eftir nóttunni, þótt dálítið væri orðið svalt í veðri. Og líklegt þykir mér, að landsföðurnum hefði einnig verið það vel að skapi að sjá þjóð sína fagna fengnu frelsi með dansi og söng. Og þegar ég hélt heiðleiðis á dvalarstað minn, þakklátur fyrir að hafa átt þennan eftirminnilega þjóðhátíðardag heima á ættjörðinni, hvarf mér í hug þetta erindi úr Fjallkonuljóði Davíðs skálds Stefánssonar frá Fagraskógi árið áður:

„Ég beið í mínum bláa draumasæ,
unz bar að landi skip með áhöfn glæsta,
djarflega menn með drengilegan blæ.
Við drang og voga reistu þeir sér bæ,
könnuðu landið, klifu tindinn hæsta.
Og allir nefndu Ísland sína móður.
Í örmum mínum spratt hinn frjálsi gróður,
og hvaða land á fegri ættaróð,
sem ortur var af hugumstærri þjóð?“

**Þjóðleikhúsið tíu ára**

Mikið merkisspor var stigið í menningarlífi hinnar íslenzku þjóðar með stofnun Þjóðleikhússins, en það átti 10 ára afmæli síðastliðið vor, og var þeirra tímamóta að verðleikum minnzt með sérstakri Listahátíð í Þjóðleikhúsinu, er stóð yfir 4.-17. júní. Var þar um að ræða

fyrstu slíka hátíð á Íslandi, og var hún helguð fjórum listgreinum, leik-, tón-, söng- og danslist, eins og tíðkast um þess konar hátíðir. Ætla ég, að þeir hinir mörgu, sem sáu hátíðarsýningarnar, muni verða sammála um það, að Listahátíðin hafi ágætlega náð tilgangi sínum. Í vinsamlegu boði Guðlaugs Rósinkranz þjóðleikhússtjóra naut ég þeirrar m i k l u og lærdómsríku ánægju að sækja tvær af sýningunum í sambandi við hátíðina.

Sú fyrri var hin fræga og vinsæla þjóðarópera Tékka, „Selda brúðurin", sem úrvals óperusöngvarar frá óperunni í Prag sýndu sem boðsgestir Þjóðleikhússins, með aðstoð nokkurra íslenzkra söngvara, en Þjóðleikhúskórinn og Sinfóníuhljómsveit Íslands önnuðust tónlistina að öðru leyti. Réttilega er þessu fræga listaverki, í stuttu máli, lýst í þessum orðum: „Það má segja, að tékknesk þjóðarsál endurspeglist í þessari óperu. Uppistaðan eru þjóðlög og gömul dansstef, meistaralega ofin saman í eina heild. Leikandi létt og skemmtileg, en á bak við leynist þungur tregi." (**Morgunblaðið**, 26. maí 1960). Er og skemmst frá því að segja, að hið tékkneska listafólk fór þannig með hlutverk sín, að hreinasta unun var á að horfa og hlýða, svo að seint mun gleymast leikhúsgestum. Íslenzku söngvararnir og dansfólkið stóðu sig einnig með prýði, þótt stuttur tími hefði verið til æfinga, enda bar tékkneski leikhússtjórinn mikið lof á hið íslenzka listafólk.

Hin hátíðarsýningin, sem ég sótti, var óperan „Rigoletto" eftir Verdi, víðfræg og margdáð í senn. Fór Guðmundur Jónsson með titilhlutverkið, en valdir sænskir óperusöngvarar með hin aðalhlutverkin, og leystu þessir söngvarar hlutverk sín af hendi með miklum ágætum. Var sýningin í heild sinni mjög áhrifamikil og minnisstæð.

Og þegar ég hrifnum huga sat í Þjóðleikhúsinu þessi yndislegu kvöld og teygaði djúpt af þeim bikar ánægju og göfgandi máttar, sem fögur og mikil list á yfir að ráða, varð mér eðlilega hugsað til þeirra, er áttu mestan hlut að því, að Íslendingar eiga nú Þjóðleikhús, sem þegar hefir veitt nýjum menningarstraumum inn í líf þjóðarinnar. Hugur minn staðnæmdist sérstaklega við nafn míns kæra vinar frá skólaárunum í Reykjavík, hins óþreytandi brautryðjanda og baráttumanns í leikhúsmálinu, Indriða rithöfundar Einarssonar. Fagurlega og maklega hyllir Tómas Guðmundsson hann í forljóði sínu við vígslu Þjóðleikhússins 20. apríl 1950:

„Já, Indriði, hér stígur morgunmild
þín minning fram. Hér leiztu
skyggnum augum
þá skjaldborg rísa um lands þíns
list og snilld,
sem löngum þótti draumsýn einni
skyld.
En þér brann ævilangt sú trú í
taugum,
að þjóð, sem hafnar heimsins list,
er dæmd
til hels og þagnar, dæmd frá tign
og sæmd.
Og víl og beyg þú lýstir lands þíns
fjendur
og lýstir hvorutveggja stríði á
hendur."

þess er farið á leit við deildirnar, að þær taki málið til athugunar. Er ég nú að vona, að þessi beiðni til deildanna kunni að bera einhvern árangur, og mér virðist, að ef hver deild hefði nefnd í málinu, myndi það vera notadrýgst. Ég lít svo á, að til þess að góður árangur náist, verði Þjóðræknisfélagið að finna og benda á réttu leiðina til starfs. Það ætti að vera ritað um málið í nafni stjórnarnefndar og það skýrt þannig, að fólk skilji, hvað um er að vera. Það þarf að koma fram áskorun frá stjórnarnefnd til fólksins að sinna þessu máli, eins og það á skilið, og það sem allra fyrst. Hingað til hafa þeir munir, sem fengizt hafa, verið gefnir í safnið, og hafa menn sýnt góðvilja sinn í því efni. En ef félaginu er alvara með það að eignast myndarlegt minjasafn, ætti það að greiða sanngjarnt verð fyrir þá muni, sem eru að einhverju leyti verðmætir. Yrði málinu með því rudd greiðari leið til áframhalds og sigurs. Síðan áðurnefndur listi var birtur, hefi ég meðtekið mynd af Þingvöllum. Gefandinn er Alla Vernon, en faðir hennar kom með myndina frá Íslandi 1930. Aðra gjöf hefi ég meðtekið frá Kristínu Sveinsson, en það er peysufataslifsi, sem Halldóra Gunnlaugsson hafði gefið henni. Þá var mér tilkynnt, að bókasafnið „Jón Trausti" í Blaine, Washington hefði hætt störfum, og hefir séra Guðmundur Johnson boðið safninu árbækur félagsins frá byrjun að gjöf. Þá hefir mér verið tilkynnt, að tvær gipsmyndir væru geymdar hjá séra P. M. Pétursson. Eru þær eftir Maríu Jónsdóttur frá Íslandi og gefnar safninu af Rósu Hermannsson Vernon í Toronto.

**Marja Björnson.**

Flutningskona gerði að tillögu sinni, að skýrslan yrði viðtekin. Frú Herdís Eiríksson studdi, og var tillagan samþykkt með samhljóða atkvæðum. Ólafur Hallsson gerði þessu næst tillögu um, að milliþinganefnd í minjasafnsmálinu skyldi endurkosin. Sú tillaga var studd og samþykkt. Í milliþinganefnd eiga sæti frú Marja Björnson, frú Herdís Eiríksson og frú Kristín Johnson.

Forseti, dr. Beck, las þessu næst símsenda kveðju frá biskupi Íslands, herra Sigurbirni Einarssyni, en kveðjan hljóðar þannig:

„Flyttu þinginu alúðarkveðjur mínar og blessunaróskir."

Sigurbjörn Einarsson biskup.

Kveðjunni var fagnað með lófataki.

Séra Jón Bjarman gerði tillögu um það, að forseta yrði falið að skipa þriggja manna allsherjarnefnd. Tillagan var studd og samþykkt. Frú Kristín Johnson gerði því næst tillögu um að fresta fundi til næsta morguns, og var sú tillaga samþykkt.

**Þriðji fundur**

var settur kl. 10 f. h., þriðjud. 23. febr. 1960. Lesin var fundargerð síðasta fundar og hún samþykkt. Forseti las að því búnu kveðju frá herra Ásmundi Guðmundssyni fyrrverandi biskupi yfir Íslandi. Kveðjan hljóðar þannig:

„Sendi þingi Þjóðræknisfélagsins kærar kveðjur og beztu árnaðaróskir."

Ásmundur Guðmundsson.

Kveðjunni var fagnað með lófataki.

Síðan kynnti forseti fulltrúa deildarinnar „Báran" á Mountain, N.D., séra Hjalta Guðmundsson og Guðmund Jónasson. Guðmundur Jónasson flutti að því búnu ársskýrslu deildarinnar „Báran" á Mountain.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar „Báran" á Mountain, N.D.**

Litlar framkvæmdir hafa orðið á árinu. En samt má þó segja, að stjórnarnefndin hafi verið vakandi og á verði eins og vera bar. Það hafa verið haldnir tveir almennir fundir, og voru þeir fremur fámennir, en góðmennir að vanda. Þrír nefndarfundir voru haldnir, og fjölluðu þeir um undribúning 17. júní samkomunnar, sem leitazt var við eftir mætti að koma í framkvæmd. En af ófyrirsjáanlegum orsökum varð að hætta við þá samkomu, þó að slæmt þætti.

Í tilefni af fimmtán ára afmæli lýðveldisins íslenzka, efndi sóknarpresturinn, séra Ólafur Skúlason, til sérstakrar hátíðarguðsþjónustu í Víkurkirkju að Mountain, kl. 2 e. h., sunnud. 21. júní. Séra Ólafur þjónaði fyrir altari og stjórnaði messugjörðinni, er hófst með því, að forseti „Báru" las bæn í kórdyrum. Blandaður kór söng íslenzka sálma undir stjórn T. Thorleifson frá Garðar, N.D. Ræðuna við guðsþjónustuna flutti dr. Richard Beck. Hóf hann mál sitt með því að flytja kveðjur og heillaóskir forseta Íslands. En ræðuefnið var „Þá hugsjónir rætast", og vísast í þessu sambandi til Lögbergs-Heimskringlu, en ræðuna er að finna á fyrstu síðu jólablaðsins 24. des. 1959.

Einnig skal þess getið hér, að á 8. síðu Lögbergs, 16. júlí 1959 er fallega rituð grein með fyrirsögninni „Afmælis íslenzka lýðveldisins minnzt í N.D.", og vísast þangað til frekari upplýsinga. En við þá grein hefir hér verið stuðzt að nokkru leyti.

Um guðsþjónustu þá, sem hér hefir

verið minnzt, má með sanni segja, að yfir henni hvíldi hátíðarblær. Hún var þrungin af uppbyggilegu efni og ánægjuleg í alla staði, og hafi séra Ólafur, dr. Beck og söngflokkurinn hjartans þökk fyrir framtakssemina og frammistöðuna. Þess skal getið, sem gjört er.

Kveðjusamsæti var haldið fyrir séra Ólaf og frú Ebbu Skúlason 30. sept. 1959 í samkomuhúsi Mountainbúa. Íslenzku söfnuðirnir stóðu fyrir samsætinu og buðu „Báru“ að taka þátt í því, og þáði hún boðið með þökkum og fól forseta að koma þar fram fyrir sína hönd og segja nokkur orð, sem hann og gjörði, bæði í bundnu máli og óbundnu. Einnig afhenti hann prestshjónunum bréf frá deildinni, sem hafði að geyma dálítinn fjársjóð fyrir þau til heimferðarinnar. Fjölyrði ég svo ekki frekar um þetta efni, en vísa til vikublaðs okkar, en 8. október 1959 er þar að finna grein með fyrirsögninni „Kveðjusamsæti“. Er þar fróðleik að finna, enda er próf. Haraldur Bessason höfundur greinarinnar, og hafi hann þökk fyrir verkið.

Fjórtán nýir meðlimir hafa bætzt í hópinn á liðnu ári, og býð ég þá hjartanlega velkomna í okkar hóp. Meðlimatala „Báru“ komst upp í 60 á árinu, og er það nokkrum meðlimum fleira en á undanförnum fjórum árum, og er ánægjulegt til þess að vita. En því miður hafa verið höggvin skörð í fylkinguna, þar sem prestshjónin fluttust burt, og söknum við þeirra úr okkar fámenna hóp. Á árinu hafa tveir meðlimir látizt, svo að mér sé kunnugt um, en það voru þau Jakob Erlendsson, d. 28. ágúst 1959, og Mrs. Lína Stratton, d. 27. nóv. 1959.

Á fundi 6. febrúar 1960 voru þessir kosnir í stjórnarnfend „Báru“: G. J. Jónasson, forseti; S. A. Bjornson, varaforseti; H. B. Grímson, skrifari; séra Hjalti Guðmundsson, varaskrifari; Joseph Anderson, féhirðir; H. J. Bjornson, varaféhirðir; O. G. Johnson, fjármálaritari.

**G. J. Jónasson,**
forseti

**H. B. Grímson,**
skrifari.

Flutningsmaður lagði til, að skýrslan yrði viðtekin. Sú tillaga var einróma studd og samþykkt. Því næst skipaði forseti í allsherjarnefnd.

**Allsherjarnefnd:**

Sr. P. M. Pétursson
Tímóteus Böðvarsson
Dr. S. E. Bjornson.

Ritari flutti þessu næst munnlega skýrslu um míkrófilmun vestur-íslenzkra kirkjubóka. Kvaðst hann hafa unnið mjög að þessu verki undanfarna mánuði, og að með aðstoð ríkisstjórnar Íslands væri nú búið að filma meginhluta umræddra kirkjubóka, en eintak af filmunum kvaðst hann hafa sent Þjóðskjalasafni Íslands í Reykjavík.

Þessu næst sagði frú Herdís Eiríksson fundargestum frá Íslandsferð sinni, en hún hafði dvalizt á Íslandi sumarmánuðina. Var gerður hinn bezti rómur að máli frúarinnar. Árni Helgason vakti máls á því, að athugandi væri, hvort Þjóðræknisfélagið gæti ekki aflað eftirprentana þeirra á íslenzkum málverkum, sem Ragnar Jónsson bókaútgefandi á Íslandi hefir látið gera. Samþykkt var samkvæmt tillögu frá féhirði, G. L. Johannson, að vísa málinu til væntanlegrar stjórnarnefndar.

Formaður kjörbréfanefndar, Guðmann Levy, tilkynnti þessu næst, að fulltrúar deildarinnar „Báran“ á Mountain færu með 20 atkvæði hvor fyrir deild sína, en eins og fyrr getur, voru mættir á þingi þeir séra Hjalti Guðmundsson og Guðmundur Jónasson. Séra Jón Bjarman gerði tillögu þess efnis, að frú Eleanor Sveinbjörnsson, ekkju dr. Sveinbjarnar Sveinbjörnssonar tónskálds yrði sent heillaóskaskeyti frá þinggestum í tilefni af níræðisafmæli hennar. Var sú tillaga þegar samþykkt og ritara falið að leiða málið til lykta. Ritari ræddi nokkuð um útgáfu á þýðingu Vilhelms Kristjánssonar á bók frú Elínborgar Lárusdóttur, „Hvíta höllin“, en því máli var vísað til stjórnarnefndar til nánari athugunar. Þessu næst gerði frú Herdís Eiríksson tillögu um, að forseta yrði falið að skipa fimm manna útbreiðslumálanefnd. Var sú tillaga studd af frú Hrund Skúlason og síðan samþykkt.

**Útbreiðslumálanefnd:**

Séra P. M. Pétursson
Stefán Eymundsson
Frú Marja Björnson
J. J. Johnson
Guðmundur Jónasson.

Ólafur Hallsson gerði tillögu um, að forseta yrði falið að skipa þriggja manna fjármálanefnd. Sú tillaga var studd og samþykkt.

**Fjármálanefnd:**

Guðmann Levy
J. B. Johnson
Daniel Lindal.

Ritari gerði þessu næst tillögu um, að forseta yrði falið að skipa fimm manna þingnefnd í fræðslumálum. Frú Louisa Gíslason studdi, og var tillagan síðan samþykkt.

**Fræðslumálanefnd:**

Frú Hólmfríður Daníelson
Frú Kristín Þorsteinsson
Frú Louisa Gíslason
Frú Margrét Goodman.

Þá kom einnig fram tillaga þess efnis, að forseta yrði falið að skipa fimm manna nefnd, er fjalla skyldi um samvinnumál við Ísland. Sú tillaga var studd og samþykkt.

**Samvinnumálanefnd:**

Dr. Valdimar J. Eylands
Frú Herdís Eiríksson
G. L. Johannson
Walter J. Líndal dómari
Séra Jón Bjarman.

Eftir sömu reglum skipaði forseti og þrjá menn í útgáfumálanefnd.

**Útgáfumálanefnd:**

Grettir L. Johannson
Árni Brandsson
Friðfinnur O. Lyngdal.

Þessu næst var samþykkt að fresta fundi til kl. 1.30.

**Fjórði fundur**

hófst þriðjud. 23. febr., kl. 2.15 e. h. Lesin var fundargerð síðasta fundar og hún samþykkt.

Frú Hólmfríður Daníelson flutti munnlega skýrslu um kennslubókarmálið. Kvað hún sig og próf. Harald Bessason fús til að athuga þetta mál sérstaklega í náinni framtíð. Grettir L. Johannson gaf skýrslu varðandi væntanlega heimsókn Karlakórs Reykjavíkur til Manitoba. Kvað Grettir forráðamenn söngmála í Winnipeg vilja hafa samvinnu við Þjóðræknisfélagið um þetta mál. Samþykkt var að vísa málinu til þingnefndar í samvinnumálum við Ísland.

Dr. Tryggvi J. Oleson flutti þessu næst nefndarálit milliþinganefndar í húsbyggingarmálinu.

**Skýrsla milliþinganefndar í húsbyggingarmálinu**

Nefndin í húsbyggingarmálinu hélt með sér þrjá fundi á árinu og leyfir sér að leggja fram eftirfarandi skýrslu og tillögur:

Samkvæmt þingsályktun síðasta þings hefir nefndin í húsbyggingarmálinu leitað fyrir sér um möguleika á samvinnu við Fyrstu lútersku kirkju í því að byggja félagshús, er fullnægði þörfum Íslendinga í Winnipeg. Lagði formaður nefndarinnar, frú Björg Ísfeld, þetta mál fyrir stjórnarnefnd Fyrsta lúterska safnaðar 17. jan. síðastl., og var máli hennar vel tekið. Afstaða nefndarinnar var síðar framsett í bréfi 23. jan., þar sem tekið er fram, að nefndin væri hlynnt þessari hugsjón og muni fús til að leggja málið fyrir aðalfund safnaðarins, ef til þess kemur, til endanlegrar ályktunar. Telur nefndin því, að það verði hlutverk þessa þings að ákveða, hvort þessi leið sé æskileg til úrlausnar málinu, og hvort að þingið vilji veita heimild til frekari framkvæmda í þessu máli. Nefndin mælist því til þess, að þingið taki ákveðna og endanlega afstöðu í þessu máli.

16. febr. 1960,

**Björg Ísfeld,** forseti
**Tryggvi J. Oleson,** skrifari
**Valdimar J. Eylands**
**Hólmfríður Daníelsson**
**Ólafur Hallsson.**

Einn nefndarmaður, Guðmann J. Levy, sá sér ekki fært að skrifa undir þessa skýrslu og mun eflaust skýra afstöðu sína fyrir þinginu.

Guðmann Levy tók þessu næst til máls og skýrði afstöðu sína. Kvaðst hann ekki hafa skrifað undir skýrsluna, þar sem hann teldi ógjörlegt að koma nokkru í framkvæmd varðandi húsbyggingarmálið. Miklar umræður og langar urðu um þetta mál. Að lokum var samþykkt tillaga, sem borin var fram af Walter J. Líndal dómara, en sú tillaga er á þessa leið:

„Húsbyggingarmálinu verði vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar með það fyrir augum að leitað verði samvinnu við Fyrsta lúterska söfnuðinn í Winnipeg. Einnig sé þeim tilmælum beint til væntanlegrar stjórnarnefndar, að hún afli álitsgjörðar frá einstökum deildum Þjóðræknisfélagsins um það, hvort þær telji áðurgreinda samvinnu æskilega."

Forseti, dr. Beck, þakkaði milliþinganefnd í húsbyggingamálinu og sér í lagi frú Björgu Ísfeld óeigingjarnt starf á liðnum árum.

G. L. Johannson flutti þessu næst símsenda kveðju frá ambassador Thor Thors, en kveðjan kom frá Mexico City og hljóðar þannig:

"Please convey greetings all good wishes to Icelandic Congress."

Thor Thors.

Að því búnu var samþykkt að fresta fundi til næsta morguns.

**Fimmti fundur**

hófst miðvikudaginn 24. febrúar, kl. 10 f. h. Lesin var fundargerð síðasta fundar og hún samþykkt. Síðan kom fram til-

laga um það að þakka milliþinganefnd í húsbyggingarmálinu, en tillagan hljóðaði þannig:

„Þjóðræknisþingið þakkar milliþinganefnd í húsbyggingarmálinu, og sérstaklega frú Björgu Ísfeld formanni nefndarinnar, vakandi áhuga á því máli og alla viðleitni í þágu þess, og telur víst, að stjórnarnefndin notfæri sér eftir ástæðum reynslu og þekkingu þeirra, sem átt hafa sæti í húsnefndinni og haft það mál með höndum árum saman.“

Tillaga þessi var studd og samþykt.

Þessu næst flutti Grettir L. Johannson nefndarálit þingnefndar í útgáfumálum.

**Nefndarálit útgáfumálanefndar**

1. Þingið þakkar ritstjórum Tímaritsins, þeim Gísla Jónssyni og próf. Haraldi Bessasyni ágætt starf.

2. Þingið þakkar enn fremur þeim, sem söfnuðu auglýsingum í Tímaritið, þeim Halldóri Stefánsson, Ólafi Hallsson og Páli S. Pálsson.

3. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að gefa út Tímaritið næsta ár og ráða ritstjóra og auglýsingastjóra.

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði borið undir atkvæði lið fyrir lið. Var svo gert, og hlutu allir liðir samþykki.

**G. L. Johannson**
**Árni Brandsson**
**F. O. Lyngdal.**

Séra Jón Bjarman flutti nefndarálit þingnefndar í samvinnumálum við Ísland.

**Nefndarálit samvinnumálanefndar**

1. Þingið fagnar því, að góð samvinna hefir haldizt við Ísland, og hefir sú samvinna heldur aukizt á árinu. Þingið álítur slíkt nauðsynlegt tilveru Þjóðræknisfélagsins. Meðan slík samskipti haldast, telur þingið að tilveru félagsins sé borgið.

2. Þingið þakkar Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík fyrir kveðjur, sem hingað bárust á segulbandi frá Íslandi á vegum félagsins í sambandi við nýafstaðna jólahátíð. Þingið þakkar enn fremur alla þá fyrirgreiðslu, sem félagið lét í té þeim Vestur-Íslendingum, sem heimsóttu ættjörðina á síðastliðnu ári.

3. Þingið minnist með þakklæti heimsóknar góðra gesta frá Íslandi á síðastliðnu ári, þeirra sem erindi hafa flutt á meðal Vestur-Íslendinga eða á einhvern annan hátt stuðlað að því að halda við sambandinu milli heimaþjóðarinnar og þjóðarbrotsins hér í Vesturheimi.

4. Þingið leggur til, að væntanlegri stjórnarnefnd verði falið að annast undirbúning varðandi móttöku Karlakórs Reykjavíkur á komandi hausti. Þingið hvetur enn fremur deildirnar til þess að leggja sig fram um að telja félagsmenn á það að taka þátt í samkomum kórsins.

5. Þingið telur það mikið ánægjuefni, að „Canada-Iceland Foundation“ og samsvarandi samtök á Íslandi, „Ísland-Kanada ráð“, hafa bæði haldið áfram starfi beggja megin hafsins og hafa náð árangri í starfi sínu við útvegun námsstyrkja handa efnilegum íslenzkum námsmönnum, sem hug hafa á því að stunda framhaldsnám í Kanada. Þingið álítur starf þetta góðan skerf til eflingar þjóðræknismálum beggja megin hafsins.

6. Þingið felur stjórnarnefndinni að athuga möguleika á að fá sýnishorn af eftirprentunum íslenzkra listaverka, sem Ragnar Jónsson, forstjóri Helgafells, hefir látið gera. Væri æskilegt að koma á fót sýningum á þessum eftirprentunum hér vestra.

**V. J. Eylands**
**W. J. Lindal**
**Herdís Eiríksson**
**Grettir L. Johannson**
**Jón Bjarman.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði borið upp lið fyrir lið. Var svo gert, og hlutu allir liðir stuðning og samþykki.

Frú Hólmfríður Daníelsson las þessu næst nefndarálit þingnefndar í fræðslumálum.

**Nefndarálit í fræðslumálum**

Nefndin lætur í ljósi ánægju sína yfir því, að nokkrar deildir hafa innan sinna vébanda barnasöngflokka, sem hafa staðið sig ágætlega og einnig yfir því, að íslenzkukennsla í smáhópum heldur áfram, þar sem próf. Haraldur og frú Hólmfríður Daníelsson kenna í heimahúsum. Allt slíkt miðar í rétta átt. Einnig eru það góðar fréttir, að við megum eiga von á því, að samið verði kennslukver í íslenzku nú á næstunni.

Nefndin leggur til:

1. Að deildirnar, hver í sinni byggð, stofni barnasöngflokka, ef möguleikar eru fyrir hendi. Slíkt getur orðið til þess, að börn og unglingar taki fremur eftir íslenzkunni, og ómetanlegt væri það, ef deildirnar gætu nú enn á ný sagt unglingum til í íslenzkulestri.

2. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins reyni að útvega nýja þjóðdansabók, sem mun fyrir skömmu út komin á Íslandi. Það hefir komið í ljós á þinginu,

að ein eða tvær deildir hafa mikinn áhuga á því að kenna börnum og unglingum þjóðdansana íslenzku.

3. Að skipuð verði tveggja manna milliþinganefnd, sem hafi það með höndum að hjálpa deildum, ef þær óska þess, til þess að setja á stofn eða halda við barnaflokkum, bæði söngflokkum og íslenzkum lestrarflokkum.

**Hólmfríður Daníelsson**
**Kristín Thorsteinsson**
**Hrund Skúlason**
**Louisa Gíslason**
**Margrét Goodman.**

Flutningskona lagði til, að nefndarálitið yrði borið upp lið fyrir lið. Var svo gert, og hlutu allir liðirnir stuðning og samþykki. Varðandi þriðja lið skipaði forseti þau frú Hólmfríði Daníelsson og próf. Harald Bessason í nefnd. Að því búnu var fundi frestað þangað til kl. 2 e. h.

### Sjötti fundur

hófst kl. 2 e. h. miðvikud. 24. febrúar. Lesin var fundargjörð síðasta fundar og hún samþykkt.

Guðmann Levy flutti nefndarálit fjármálanefndar.

### Nefndarálit fjármálanefndar

1. Nefndin leggur til, að skýrslur embættismanna séu samþykktar eins og þær liggja fyrir.

2. Nefndin leggur til að styrkja Skógræktarfélag Íslands með 1500.00 kr. framlagi, þegar peningar eru fyrir hendi á banka okkar í Reykjavík.

3. Nefndin leggur til að styrkja blaðið „Lögberg-Heimskringla“ með 500.00 dala framlagi árið 1960.

4. Nefndin leggur til, að greiddur verði 50.00 dala ferðakostnaður fyrir þingfulltrúa þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin“ í Vancouver.

**Jón B. Johnson**
**Guðmann Levy**
**W. J. Lindal.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði borið undir atkvæði lið fyrir lið. Það var samþykkt, og að lyktum voru allir liðir samþykktir, svo og nefndarálitið í heild.

Séra P. M. Pétursson flutti nefndarálit útbreiðslumálanefndar.

### Nefndarálit útbreiðslumálanefndar

Nefndin leggur til:

1. Að þingið þakki forseta sínum, dr. Richard Beck, hið mikla og óeigingjarna starf, sem hann hefir unnið á árinu í þágu útbreiðslumála félagsins.

2. Að þingið þakki meðlimum félagsins og öðrum, sem með myndasýningum, ræðuhöldum eða á annan hátt hafa stuðlað að því að útbreiða þekkingu á íslenzkum málum og menningu á umliðnu ári.

3. Að þingið þakki öllum þeim, sem á árinu hafa hjálpað börnum og unglingum til þess að læra íslenzka tungu og til þess að læra íslenzk ljóð og söngva. Enn fremur hvetur þingið deildir sínar til þess að örva þessa viðleitni eftir mætti. Einnig felur þingið væntanlegri stjórnarnefnd að athuga möguleika á því að efna til samkeppni meðal ungmenna í söng og framsögn íslenzkra ljóða í sambandi við ársþing Þjóðræknisfélagsins.

4. Að þingið láti ánægju sína í ljósi yfir fréttum, sem hafa borizt af góðum árangri af kennslu próf. Haralds Bessasonar og vaxandi aðsókn að námsskeiðum hans í íslenzku. Enn fremur, að þingið þakki honum mörg ágæt og fræðandi erindi um Ísland og íslenzk mál, sem hann hefir flutt í byggðum Íslendinga.

5. Að þingið feli stjórnarnefnd félagsins að veita deildum aðstoð við útvegun lit- og hreyfimynda og annars fræðsluefnis um íslenzk mál, sem að gagni mætti koma á fundum og samkomum. Einnig mælist nefndin til, að þingið fari þess á leit við meðlimi stjórnarnefndar, að þeir heimsæki deildir félagsins á komandi ári, eins oft og auðið er.

6. Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að athuga möguleika á því að fá hingað vestur til afnota hreyfimynd þá, er próf. Finnbogi Guðmundsson lét taka hér í Íslendingabyggðum með atbeina Þjóðræknisfélagsins og nú mun í vörzlum hans á Íslandi og einnig, að þess verði farið á leit við prófessor Finnboga, að hann komi með myndina hingað vestur, þar sem hún nyti sín bezt með góðum útskýringum kunnugs manns. Einnig felur þingið stjórnarnefnd að skipuleggja myndasýningarnar í Íslendingabyggðum vestra hér.

7. Að þar sem íslenzku blöðin, Heimskringla og Lögberg, hafa séð sér fært að sameina krafta sína með því að koma út undir einu nafni „Lögberg-Heimskringla“, sem er nú eina tengitaugin milli Vestur-Íslendinga og heimaþjóðarinnar, þá hvetji þingið alla Íslendinga til að styrkja blaðið eftir mætti. Enn fremur leggur nefndin til, að blaðið flytji fréttir frá hinum ýmsu byggðar-

lögum og að deildir, hver í sínu lagi, velji fréttaritara til þess að skrifa reglulega í blaðið.

**Philip M. Pétursson**
**Marja Björnson**
**Stefán Eymundsson**
**John B. Johnson**
**G. J. Jónasson.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði borið upp undir atkvæði lið fyrir lið. Var sú tillaga samþykkt. Allmiklar umræður urðu um suma liðina. Í sambandi við 7. lið tók til máls meðal annars frú Ingibjörg Jónsson ritstjóri Lögbergs-Heimskringlu og fylgdi mjög eftir þeim fyrirmælum, sem sá liður hefir að geyma. Allir liðir nefndarálitsins hlutu stuðning og samþykki, svo og álitið í heild.

Séra Philip M. Pétursson flutti skýrslu allsherjarnefndar.

**Skýrsla allsherjarnefndar**

1. Nefndin leggur til, að ritara sé falið að þakka fyrir félagsins hönd á viðeigandi hátt allar kveðjur, sem félaginu bárust á 41. þingi þess og þá sér í lagi eftirfarandi: Sigurbirni Einarssyni biskupi Íslands, ambassador Thor Thors, Washington, Ólafi Thors forsætisráðherra Íslands, herra Ásmundi Guðmundssyni fyrrverandi biskupi Íslands, Árna Bjarnarsyni, Akureyri, og ritara Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík, herra Sigurði Sigurgeirssyni.

2. Þjóðræknisfélagið þakkar hinum virðulega gesti, dr. Árna Helgasyni frá Chicago, komuna og margvíslegan stuðning hans við þjóðræknismál og árnar honum og fjölskyldu hans góðs gengis og gæfu.

3. Þjóðræknisfélagið vottar Ragnari Á. Stefánssyni þakklæti sitt fyrir margra ára óeigingjarnt starf sem skjalavörður félagsins og árnar honum allrar blessunar.

4. Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að ganga frá fundargjörningum, sem ólokið er, og öðrum störfum, sem henni hefir verið falið að vinna.

**P. M. Pétursson**
**S. E. Björnson**
**T. Böðvarsson.**

Næsta mál á dagskrá var kosning embættismanna Þjóðræknisfélagsins, en þessi voru kjörin í stjórnarnefnd: dr. Richard Beck, forseti; séra P. M. Pétursson, varaforseti; prófessor Haraldur Bessason, ritari; W. J. Líndal dómari, vararitari; G. L. Johannson, féhirðir; frú Hólmfríður Daníelson, varaféhirðir; Guðmann Levy, fjármálaritari; Ólafur Hallsson, varafjármálaritari; frú Marja Björnson, skjalavörður. Endurskoðendur voru kjörnir þeir J. T. Beck og Davíð Björnsson.

Um kvöldið var hinu fertugasta og fyrsta þjóðræknisþingi formlega slitið af forseta, dr. Richard Beck, á lokasamkomu Þjóðræknisfélagsins í Sambandskirkjunni á Banningstræti.

**Haraldur Bessason,** ritari
**Richard Beck,** forseti.

Hjálmur V. Thorsteinsson, fjármálaritari
Mrs. John Stevens, varafjármálaritari
Mrs. Helgi Stevens, skjalavörður
Meðlimasrká:
Guðjón W. Árnason
Mrs. G. W. Árnason
Ted K. Árnason
Miss Sæunn Bjarnason
Helgi Benediktsson
Harold Bjarnason
Mrs. Harold Bjarnason
Óli Bjarnason
B. G. Bjarnason
Sveinn Björnsson
Mrs. Helga Demedash
Pálmi F. Einarsson
Barney Egilson
Mrs. Barney Egilson
Harry Einarsson
Mrs. Harry Einarsson
Einar S. Einarsson
Mrs. E. S. Einarsson
Ingi Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
Einar A. Einarsson
August Elíasson
Mrs. August Elíasson
Stefán Eldjárnsson
S. E. Eyjólfsson
Mrs. S. E. Eyjólfsson
Mrs. G. Eyjólfsson
Mrs. Sigrún Gíslason
Kjartan Geirholm
Mrs. Kjartan Geirholm
Adolf Holm
Mrs. Adolf Holm
Miss M. Halldórsson
Miss S. Hjartarson
Dr. A. B. Ingimundson
Mrs. A. B. Ingimundson
J. V. Johnson
Jón J. Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. Pálmi Jóhannson
Óli P. Josephson
Mrs. O. P. Josephson
Dr. Jónas G. Johnson
Mrs. Elín Kristjánsson
Ólafur N. Kardal
Mrs. O. N. Kardal
Ted Kristjánsson
Kristján N. Kárason
Lestrarfélagið „Gimli"
F. O. Lyngdal
G. B. Magnússon
G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
B. Frank Olson
Baldur Peterson
Mrs. Baldur Peterson
P. S. Pálsson
Guðmundur Peterson
Dóri Peterson
Mrs. Dóri Peterson
Mrs. Lauga Peterson
Mrs. Emma Von Renesse
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Margrét Sigurdsson
Björn Sigurdsson
Sam Sigurdsson
Miss Guðrún Sigurdsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
S. Th. Sveinsson

Helgi Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. L. Stevens
Valdimar Stefánsson
Mrs. Valdimar Stefánsson
Eric Stefánsson, M.P.
Mrs. Eric Stefánsson
Mrs. F. E. Scribner
Óli Thorsteinsson
Mrs. Óli Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. H. R. Tergesen
Miss J. V. Thordarson
Björgvin Thordarson
Mr. Jóhann Sæmundsson — heiðursfélagi

**Deildin „Lundar" Lundar, Man.**

Meðlimir:
Mr. og Mrs. Ágúst Eyolfson
Gísli S. Gíslason
Mrs. Rannveig Guðmundson
Séra og frú Jón Bjarman
Mrs. Ragnheiður Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðson
Mrs. Kristín Pálson
Mr. og Mrs. Kári Byron
Mr. og Mrs. Daniel Lindal
Varði Howardson
Ásgeir Jörundson
Mr. og Mrs. Ási Fríman
Dr. og Mrs. Númi Hjálmarson
Mr. og Mrs. Óli Hallson
Albert Thorgilson
Mike Halldórson
Oddur Oddson
Beggi Eiríkson
Mrs. Sigrún Johnson
Mr. og Mrs. Valdi Rafnkelson
Grímur Sigurðson
Jón A. Björnson
Hjörtur Hjartarson
Dr. Guðm. Pálsson
Mrs. Margrét Johnson
J. Thorgilson
Mrs. M. Hofteig
Mrs. M. Björnson
Mrs. B. Björnson

Embættismenn 1961:
Forseti:
Séra Jón Bjarman
Varaforseti:
Kári Byron
Skrifari:
Gísli S. Gíslason
Varaskrifari:
Mrs. Rannveig Guðmundson
Féhirðir:
A. Jörundson
Varaféhirðir:
J. A. Björnson
Yfirskoðunarmaður:
K. Byron
Bókavörður:
Mrs. A. Eyolfson
Erindrekar á þjóðræknisþingi:
Séra Jón Bjarman
Mrs. Rannveig Guðmundson
Til vara:
A. Jörundson
Mrs. I. Rafnkelson

**Deildin „Báran", Mountain**

Heiðursmeðlimir:
Dr. Richard Beck
Gamaliel Thorleifson
H. J. Hjaltalín

Meðlimir:
Séra Hjalti Guðmundsson
Sigm. Guðmundson
Miss Kristbjörg Kristjánson
Haraldur Ólafson
Einar J. Einarson
John J. Einarson
O. G. Johnson
Joseph Anderson
Helgi Reykdal
P. B. Ólafson
Hannes Björnson
S. B. Sigurdson
John Axdal
Matt. Björnson
Björn Stefánson
W. M. Sigurdson

A. M. Ásgrímson
Elmo Christjanson
Leo J. Laxdal.
Alvin Melsteð
Barney Stevenson
S. F. Björnson
Steini Goodman
Leonard Benson
Fred Halldórson
Mrs. Ingibjörg Jónason
G. J. Jónason
O. B. Thorsteinson
W. M. K. Halldórson
G. A. Gudmundson
Óli G. Johnson
Steini Mýrdal
Albert Bjarnason
H. M. Jónason
Björn Olgeirson
Steve Thordarson
Fred G. Johnson
John H. Johnson (dáinn)
Fred Ólafson
H. S. Walter
Mrs. F. M. Einarson
H. B. Grimson
S. A. Björnson
Stefán Indriðason
G. Gudmundson
Jóhann Geir
Mrs. Gardar Johnson
Helgi Laxdal
Chris Gudmundson
V. G. Gudmundson
Magnús B. Byron
A. T. Byron
B. K. Anderson
Óli Hörgdal
Gestur J. Gestson
Helgi Finnson
Victor Sturlaugson
Hjalti Thorfinnson

**Meðlimaskrá deildarinnar „Brúin", Selkirk, Man. 1961**

Embættismenn:
Forseti:
Friðrik E. Nordal
Varaforseti:
Ásta Eiríkson
Skrifari:
Guðrún Vigfúsdóttir
Varaskrifari
Sigrún Nordal
Féhirðir:
Allie Goodbrandson
Varaféhirðir:
Óla Magnússon
Fjármálaritari:
Márus Benson
Bókavörður:
Friðrik Nordal

Meðlimir:
Birgitta Björnson
Kristinn Goodman
Margaret Goodman
Jóhanna Goodman
Rúna Ísfeld
Vigdís Johnson
Dr. Óli Johnson
Gestur Jóhannesson
Þórunn Johnson
Freida Lyons
Rúna Magnússon
Einar Magnússon
Ingibjörg Pálson
Jafeta Skagfjörd
W. P. Thorsteinson
Pétur Thorsteinsson
Einar Thorwaldson

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**

Stefán G. Einarson
Oscar Gillis
Ragnar Gillis
Mrs. Louisa Gíslason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Jóhann P. Tómasson
Thomas Thomasson
Mrs. K. I. Thomasson
Jónathan Thomasson

**Deildin „Frón", Winnipeg**

Forseti:
Heimir Thorgrímsson
Varaforseti:
Steindór Jakobsson
Skrifari:
Próf. Haraldur Bessason
Varaskrifari:
Valdimar Lárusson
Gjaldkeri:
Jochum Ásgeirsson
Varagjaldkeri:
Mrs. S. E. Björnsson

Fjármálaritari:
G. Finnbogason
Bókavörður:
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

Ársfélagar:
Mrs. Sigríður Árnason
Harold Axdal
Hannes Anderson
Margrét S. Anderson
Jón Ásmundsson
Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Black
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
B. E. Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Davíð Björnsson
Rósa Björnsson
H. Björnsson
Skúli Böðvarsson
O. G. Björnsson
Guðrún Brandson
Ásgerður Brandson
Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ólafur Bjarnason, Seattle
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
Marja Björnsson
Dr. Sveinn Björnsson
Jóhannes Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
H. F. Danielson
Mrs. H. F. Danielson
Lína Dunning
Mrs. R. Davidson
Gestur Davidson
C. O. Einarsson
Árni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Kristinn Einarsson
A. Eyjólfsson
Magnús Elíasson
Jens Elíasson
Hávarður Elíasson
Guðrún Eyjólfsdóttir
Ólafía Finnbogason
G. Finnbogason
Fred Friðfinnsson
Mrs. Trausti Friðriksson
Victor Freeman
Þorvaldur Gíslason
Hallbera Gísladóttir
Mrs. Ragnar Gíslason
J. S. Gillies
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Kristinn Gunnlaugsson
Carl Hanson
Ben Heiðmann
Karólína Heiðmann
Páll Hallson
Th. Hansson
Eric Helgason
Svafa Helgason
Fanney Helgason
Thor Otto Hallson
Jón Hafliðason
Anna Halldórsson
T. L. Hallgrímsson
Jónína Hjálmson
Th. Ísleifson
Mrs. Th. Ísleifson
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Kristín Johnson
S. L. Jóhannesson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Ingibjörg Jóhannsson
Bertha Jones
Mrs. Jóhanna Jónasson
Ingibjörg Johnson
J. G. Jóhannsson
Finnur Johnson
Mrs. G. Johnson
Páll Johnson
M. Johnson
Ólína Johnson
Ásmundur Jónsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Dr. Björn Jónsson
Jón Jóhannesson

K. W. Johannson
Jón Jónatansson
Christine Jóhannsson
Veiga Johnson
Hlaðgerður Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
W. Kristjánsson
Jón K. Laxdal
J. J. Líndal
Una Th. Líndal
W. J. Líndal
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Sumarliði Matthews
Þorsteinn Mýrmann
K. Norman
Jakobína Nordal
Jóhann Nordal
Benedikt Ólafsson
Snorri Olson
Guðrún Ólafsson
Óli Ólafsson
Dr. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Soffía Oddson
Óli Ólafsson
Jónína Olson
Margrét Paulson
Mrs. William Paulson
Guðbjörg Paulson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Hannes J. Pétursson
Margrét Sigurðardóttir
Rósa Sigfússon
Pétur Stephanson
Björn Stephanson
Bergljót Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regina Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Stefán Stefánsson
Hans M. Sveinsson
Guðrún Sveinsson
Björgúlfur Sveinsson
Ingi Sveinsson
Líney Sveinsson
Kristín Sveinsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Emma Thorvaldsson
Soffanías Thorkelsson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson
Carl Vopni
Helgi Westmann
Thorgerður Thordarson
H. G. Stadfeld

**Deildin „Aldan", Blaine, Washington**

Elízabet Arngrímson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Dr. Sveinn E. Björnsson
Marja Björnsson
Gísli Benedictson
Thorbjörg R. Couch
Rósa Casper
Bertha Danielson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Gísli Guðjónson
Hólmfríður Guðjónson
Séra Guðm. J. Johnson
Margrét Johnson
Rúna Johnson
Solveig Jóhannson
Thorbjörg Johnson
Séra Albert E. Kristjánsson

Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Líndal
Dr. H. S. Sigmar
Margrét Sigmar
Einar Símonarson
Begga Sölvason
Helgi Steinberg
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Belle Straumfjörð
Helga Guðmundson
Sólveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð

Embættismenn:
Forseti:
Sr. Albert E. Kristjánsson
Varaforseti:
Anna Kristjánsson
Skrifari:
Dagbjört Vopnfjörð
Varaskrifari:
Herdís Stephanson
Féhirðir og skjalavörður:
Jóhann J. Straumfjörð
Varaféhirðir:
Jón Laxdal

**„Ströndin", Vancouver, B.C.**

Meðlimir:
Óli Anderson
E. Árnason
Nói Bergman
Mrs. Nói Bergman
Th. Bergman
Mrs. Á. Björnsson
Bert J. Björnsson
B. Brynjólfsson
Séra E. S. Brynjólfsson
Frú E. S. Brynjólfsson
Mrs. Inga Egilsson
E. Elíasson
Mrs. G. Erickson
Mrs. Rúna Erickson
S. Eymundsson
Mrs. S. Eymundsson
Mrs. Carl Finnbogason
G. Friðrikson
Mrs. G. Friðrikson
Dr. E. J. Fridleifson
G. G. Gíslason
G. F. Gíslason
G. J. Guðmundson
J. Guðmundson
Snorri Gunnarsson
Mrs. Snorri Gunnarsson
Miss Bára Guðlaugsson
Miss Rósa Guðmundsson
Mrs. E. F. Hall
H. J. Halldórsson
Mrs. Anna Harvey
Geirjón Helgason
Mrs. Geirjón Helgason
Oscar Howardson
Th. Ísdal
C. H. Ísfjörð
G. Jacobson
Mrs. G. Jacobson
Thorir Jacobson
Mrs. Thorir Jacobson
Egill Johnson
Mrs. Egill Johnson
Mrs. Helga Johnson
H. B. Johnson
Mrs. H. B. Johnson
J. S. Johnson
Sig. Johnson
Mrs. Sig. Johnson
Hákon Kristjánsson
Torfi Leóson
F. O. Lyngdal
Kr. Ólafsson
Mrs. Sigr. Olsen
Mrs. Sigr. Reykjalín
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Lóa Skúlason
Gunnbjörn Stefánsson
Sig. Stefánsson
Oscar Sveinsson
B. Thorlacius
L. H. Thorlaksson
Mrs. F. Thorsteinsson
O. B. Thornton

**Sambandsfélagið „Vestri", Seattle, Wash.**

Fred Nelson
Mrs. Fred Nelson
John Thorgeir Johnson
Jón Sigurðson
Árni Þór Víking
Mrs. Árni Þór Víking
Sigurþór Margeirson
Mrs. Sigurþór Margeirs.
Stefán Haukson
Snorri Haukson
Rev. G. P. Johnson
Mrs. G. P. Johnson
Mrs. Anna Hanley
Halldór Viðarson
Mrs. Halldór Viðarson

Mrs. Helga Andal
Mrs. Sophia Wallace
Mrs. Arndís Ólafsson
Mrs. Dora Rosswick
Ástvaldur Eydal
O. B. Johannson
Mrs. O. B. Johannson
Jonas J. Middal
Mrs. Sólveig Olson
Pálmi Pálmason
Mrs. Anna Pálmason
Mrs. Gudrun Page
J. E. Samuelson
Mrs. J. E. Samuelson
Byron Samuelson
Mrs. Byron Samuelson
Mrs. Emma Scheving
Stefán Scheving
Mrs. Anna Scheving

Mrs. Ruth Sigurdson
S. S. Thordarson
Björg Thordarson
Kristinn Thorsteinson
Mrs. Elin Thorsteinson
Miss Ingibjörg Matthiass.
Miss Dora Grímson
Mrs. Jónas J. Middal
Björn Ásmundson
Mrs. Björn Ásmundson
Ólafur Bjarnason
Mrs. Ó. Bjarnason
Tani Björnson
Mrs. Sigrid Björnson
S. H. Christianson
Mrs. S. H. Christianson
Mrs. Sigga Franks
F. J. Frederickson, Everett, Wash.

Mrs. Margret George
Stefán B. Johnson
Mrs. Steina Johnson
Kjartan J. Johnson
Mrs. Brynhildur Jónsson
Marvin Jónsson
Sigurlaug Johnson
Mrs. Sarah Johnson
Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon

Heiðursmeðlimir:
Mrs. Jakobína Johnson
H. E. Magnusson
Mrs. Helga Johnson
K. F. Frederick
Gunnar Matthíasson, Los Angeles, Calif.


OAKLAND
STANDS FOR QUALITY

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

# PATRONIZE OUR ADVERTISERS —

# They Are Helping To Make This Timarit Possible.



# Quality
## is the word for VIKING

ONLY AT
EATON'S

## in Stereo...

From within this beautifully designed, hand-rubbed wood cabinet comes the concert hall realism of stereo, magnificently reproduced by six powerful speakers, acoustically balanced for truer performance. See the 1961 'Victoria' stereophonic hi-fidelity, AM/FM radio combination soon. In walnut or mahogany veneers.

Model RCS-460, Each, ............... **599.95**
Fruitwood Veneer, Each, ............. **609.95**





## in Television...

The 1961 VIKING gives you a full 23-inch screen with squared corners . . . you see more! Its high quality 'Ultronic' chassis incorporates many finer features, including six hi-fidelity speakers. The lovely French Provincial styling is in hand-rubbed wood finishes of walnut or mahogany.

Model TCE-439, Each, .......................... **449.95**
Fruitwood Veneer, Each, ......................... **459.95**

VIKING ...**Available Only At**
**EATON'S OF CANADA**